# Stafrof.

Aa Bb Cc

Dd Ee Ff Gg

Hh Iji Kk Ll

Mm Nn Oo Pp

Qq Rr Sſs Tt

Uu Vv Xx Yy

Zz Þþ Ææ Øø

| | | | | |
|---|---|---|---|---|
| A a | B b | C c | D d | E e |
| A a | B b | C c | D d | E e |
| A a | B b | C c | D d | E e |
| F f | G g | H h | J I i | K k |
| F f | G g | H h | J i | K k |
| F f | G g | H h | J i | K k |
| L l | M m | N n | O o | P p |
| L l | M m | N n | O o | P p |
| L l | M m | N n | O o | P p |
| Q q | R r | S ſ s | T t | U u |
| Q q | R r | S ſ s | T t | U u |
| Q q | R r | S ſ s | T t | U u |
| V v | W w | X x | Y y | Z z |
| V v | W w | X x | Y y | Z z |
| V v | W w | X x | Y y | Z z |

# Ad-kvæd-inn.

| | |
|---|---|
| Ab eb ib ob ub | Ba be bi bo bu |
| Ac ec ic oc uc | Ca ce ci co cu |
| Ad ed id od ud | Da de di do du |
| Af ef if of uf | Fa fe fi fo fu |
| Ag eg ig og ug | Ga ge gi go gu |
| Ah eh ih oh uh | Ha he hi ho hu |
| Ak ek ik ok uk | Ka ke ki ko ku |
| Al el il ol ul | La le li lo lu |
| Am em im om um | Ma me mi mo mu |
| An en in on un | Na ne ni nu nu |
| Ap ep ip op up | Pa pe pi po pu |
| Ar er ir or ur | Ra re ri ro ru |
| As es is os us | Sa ſe ſi ſo ſu |
| At et it ot ut | Ta te ti to tu |
| Ax ex ix ox ux | Xa xe xi xo xu |
| Aþ eþ iþ oþ uþ | Þa þe þi þo þu |

## Sign=ing=inn.

I Nafn=e Fød=urs og Son=ar, og And=a Hei=lags, A=men.

## Drott=inn=leg Bæn.

Fad=er vor þu sem ert a Himn=um. Helg ist þitt Nafn. Til=kom=e þitt Rijk=e. Verde þinn Vil=ie, so at Jørd=u sem a Himn=e. Gef oß i Dag vort dag=legt Brand. Og fyr=er=gef oß vor=ar Skulld=ir, so sem vier og fyr=er=gef=um vor=um Skulld=u=naut=um. Og eigi leid þu oß i Freist=ni. Helld=ur frelß=a oß fra Ill=u. Þvi=ad þitt er Rijk=id, og Mætt=ur=enn og Dijrd=enn, umm Alld=er=nar, A=men.

## Bless-un-ar Ord-inn.

Drott-enn bless-e mig, og vard-veit-e mig, Drott-enn lǽt-i siin-a A-sioon-u liis-a yf-er mig og sie mier Mysk-un-sam-ur, Drott-inn snw-e siin-u Aug-lit-e til miin og gef-e mier Frid, A-men.



## Bord-Psalmurinn.

Fyrir Maaltiid:

Allra Augu vona til þiin Drott-inn, og þu gefur þeim þeirra Fœdu i Hœfileganu Tiima, þu uppliikur þinni Hendi, og sedur allar lifandi Skepnur med þinni Blessan.

Diird sie Gudi Fødur og Syni og Heilogum Anda, so sem hun var

ad Upphafi, og er enn nu, og jafnann, umm allar Alldir Allda, Amen.

Gud Fadir myſkuna þu oſs, Gud Sonur myſkuna þu oſs, Gud Heilagur Andi myſkuna þu oſs!

Fadir vor, þu ſem ert a Himnum, etc.

Drottinn Gud Himneſkur Fader, bleſsa þu oſs og þeſſar þijnar Gafur, ſem vier med tøkum til vor af þinni myſkunſamlegri Goodgyrni, fyrir Jeſum Chriſtum vorn Drottiñ og Herra, Amen.

# Bord-Pſalmurinn.

Eptir Maaltijd:

Þackid þier Drottni, þvi ad hann er goodur, og hanns Myſkunſemi varir ad eilijfu. Hvor ed øllu Holldi giefur Fædu, Kvikfienadinum ſitt Foodur, og Ungum Hrafnanna, ſem hann akalla. Hann hefur aungva Lyſt a Styrkleika Heſtſins, ecki helldur Þoknan a nockurs Manns

Beinum, Drottne eru vel þeckir þeir sem hann Ottast og til hanns Myskunar vona.

Dyrd sie Gudi Fødur og Syne, etc.
Gud Fadir myskuna þu oss, etc.
Fadir vor þu sem ert a Himnum, etc.

Þackir giørum vier þier, Drottinn Gud Himneskur Fadir, fyrir JEsum Christum vorn Herra, og fyrir allar þijnar Gaafur og Velgiorninga, þu sem lifir og rijkir ad Eylijfu, Amen.



Sa minni

# Catechismus

med

# Utleggingu

D. Mart. Luth.

## Þetta eru Tiju Laga

# Bodord Guds.

### Fyrsta Bodord.

Eg er Drottin, Gud þinn, þu skallt ecki hafa Annarlega Gudi fyrir mier.

Hvad er þad?

Þad er: Vier eigum yfir alla Hluti framm Gud ad Ottast, hann ad elska, og a hann Einn ad trwa.

## Annad Bordord.

Þu skallt ecki leggia Nafn Drottins Guds þijns vid Hiegooma, þvi Drottinn mun ei hallda þann Saklausann, sem brwkar hanns Nafn Hiegoomlega.

Hvad er þad?

Þad er: Vier eigum ad Ottast og elska Gud. Aungvum eigum vier Ills ad bidia i hans Nafni, eigi sveria vid þad nie Fiolkingi fremia, eigi liwga nie svijkia, helldur eigum vier Guds Nafn ad aakalla i ollum vorum Naudsynium, þad ad tilbidia, lofa þad, og þvi Þacka ad giora.

## Þrida Bodord.

Minnstu ad helga Hvijldar-Daginn Drottins Guds þijns.

Hvad.

Hvad er þad?

Þad er: Vier eigum ad Ottast og elska Gud. Ad vier eigi fyrirlijtum Predikunina, nie hanns Ord, helldur eigum vier þad Heilagt ad hallda, giarnann heyra þad og læra.

## Fioorda Bodord.

Heidra skallt þu Fødur þinn og Moodur, so þier vel vegni, og þu verdir Langlijfur a Jørdunni.

Hvad er þad?

Þad er: Vier eigum ad Ottast og elska Gud. Ad vier eigi fyrirlijtum vora Forelldra, nie þa sem yfir oss eru bodnir, eigi þa til Reidi reitum, helldur þa i Heidri hofum, þioonum þeim og hlijdnir sieum, elskum þa og Virding veitum.

## Fimmta Bodord.

Þu skallt ecki Mann deyda.

Hvad er þad?

Þad er: Vier eigum ad Ottast og elska Gud. Ad vier eigi meidum Holld

vors Naunga, edur giorum honum Mein i nockru, helldur eigum vier honum ad biarga og vidhialpa i ollum hanns Lijfs-Naudsynium.

## Siøtta Bodord.

### Þu skallt ecki Hoordoom drygia.

Hvad er þad?

Þad er: Vier eigum ad Ottast og elska Gud. Ad vier lifum hreinferduglega bædi i Ordum og Verkum, og ad hvor einn elski og i Heidri hafi sijna Egta-Persoonu.

## Siøunda Bodord.

### Þu skallt ecki stela.

Hvad er þad?

Þad er: Vier eigum ad Ottast og elska Gud. Ad vier eigi griipum Goots edur Peninga vors Naunga, edur med folskum Kaup-Eyri edur Undirhyggiu undir oss drogum; helldur eigum vier honum ad hialpa, so hanns Goots og Upp-Elldi mvaxtist og vardveitist.

Attunda

## Attunda Bodord.

Þu skallt ecki bera falskann Vitnisburd a mooti þijnum Naunga.

Hvad er þad?

Þad er: Vier eigum ad Ottast og elska Gud. Ad vier eigi raunglega liwgum nockru a vorn Naunga, eigi svijkium, baktolum, edur Ofrægium hann i nockru, helldur eigum vier hann ad afsaka, allt gott umm hann ad tala, og færa alla Hluti til betra Vegar.

## Nijunda Bodord.

Þu skallt ecki gyrnast Hws Naunga þijns.

Hvad er þad?

Þad er: Vier eigum ad Ottast og elska Gud. Ad vier eigi med Flærd stundum eptir Arfi edur Fast-Eign vors Naunga, edur undir oss drogum med Yfirvarpi Laga og Riettinda, helldur eigum vier þar til hialpa og styrkia, ad hann hafi sitt allt Oskaddad.

A 7 Tijunda

## Tijunda Bodord.

Þu skallt ecki gyrnast Kvinnu Naunga þijns, eigi Þioon nie Þioonustu-Kvinnu, eigi Uxa nie Asna, og eckert þad hanns er.

Hvad er þad?

Þad er: Vier eigum ad Ottast og elska Gud. Ad vier eigi burt-tælum edur lockum fra vorum Naunga hanns Eiginn Kvinnu, Þioonustu Folk eda Kvik-Fie, helldur eigum vier ad aminna og Radleggia, ad hvor og einn sie samt og astundi, ad þioona þad honum skylldugt er.

Hvad segir Gud af øllum þessum Bodordum?

Hann segir so i Exodi Bookar 20 Cap. Eg er Drottinn Gud þinn, sterkur Vandlætari, vitiandi Ranglætis Fedranna a Sonunum, i Þridiu og Fioordu Ættkvijsl, þeirra sem mig hata. Enn giørandi Myskunsemi i Þusund Lidu, þeim sem mig elska og mijn Bodord vardvita.

Hvad

Hvad er þad?

Þad er: Gud hootar þeim øllum Piinu, sem afvijkia þessum hanns Bodordum; Þvi eigum vier ad Ottast og hrædast hanns Reidi, og eckert ad giora mooti hanns Bodordum: Enn þeim øllum sem þessi hanns Bodord hallda, lofar hann sinni Nad, Myskun, og øllum goodum Hlutum; Þar fyrir eigum vier Gud ad elska, trwa honum og treysta, og eptir hanns Bodordum giarnann ad giora.



# Trwar-Jatninginn.

## Fyrsta Grein.

## Af Skopuninni.

Eg trwi a einn Gud Fodur Almattugann, Skapara Himins og Jardar.

Hvad er þad?

Þad er: Eg trwi ad Gud hafi skapad mig, asamt øllum ødrum Skiepnum, og

og ad hann hafi giefid mier Ond og Lijkama, Augu, Eyru og alla Limi, þar med Skin og Skilningar-Vit, og ad hann ollu þessu enn nu vid Magt helldur. Hier til veitir hann mier og fyrirsier nooglega, og daglega giefur hann mier Klædi og Skiædi, Mat og Dryck, Hws og Heimili, Fodur og Moodur, Akur og Kvik-Fie, og allt þad sem Gott er, med ollu þvi eg med þarf til þessa Lijfs Uppehelldis. Hann verndar mig og vardveitir fra ollum Skada og Haska, og ollum illum Hlutum. Allt þetta Gott veitir hann mier, af sinni Einskiærri, Fodurlegri, Gudlegri, Goodgyrnd og Myskun, an allrar minnar Forþienustu og Verdskulldunar. Fyrir hvad allt eg a honum Lof og Þacklæ ad giora, honum ad þiona og hlijdinn ad vera: Þetta eru vissuleg Sannindi.

## Aunnur Grein.

# Af Endurlausninni.

Eg trwi a Jesum Christum Son hanns Eingetinn Drottinn vorn, hver

hver ed gietinn var af Heileguin Anda, fæddur af Mariu Meyu, pijndur undir Pontio Pilato, Kroßfestur, deyddur og grafinn, nidur stie hann til Helvijtis, og a Þridia Degi reis hann upp fra Daudum, uppstie hann til Himna, situr nu til Guds Fodurs Almattugs hægri Handar, og þadann mun hann koma ad dæma Lifendur og Dauda.

Hvad er þad?

Þad er: Eg trwi, at Jesus Christus sie sannur Gud af Fodurnum gietinn fyrir allar Alldir: Lijka sannur Madur, fæddur af Mariu Meyu, ad hann sie minn Drottinn, sem mig glatadann og fyrirdæmdann Mann hefur afrekad, endurleyst og frelsad, fra ollum Syndum, Daudanum og Djofulsins Valldi, eigi med Gulli nie Silfri, helldur med sijnu heilaga dijrmæta Blodi, og med sinni saklausu Pijnu og Dauda: So ad eg sie hanns eiginnleg Eign, lifi undir hans Valldi, i hanns Rijki, honum þioni i Eilijfu Rietlætti, Meinleysi og Sælu-

Sáluhiálp, lijka sem hann er siálfur af Daudanum upprisinn, lifir og rijkier ad eilijfu. Þetta eru vissuleg Sannindi.

## Þridia Grein.
# Af Helguninni.

Eg trwi á Heilagann Anda, og ad sie ein heilög, almenneleg, christileg Kyrkia, Samneyti Heilagra, Fyrirgiefning Syndanna, Holldsins Upprisa, og, eptir þetta Lif, Eilijft Lijf.

Hvad er þad?

Þad er: Eg trwi, ad eg gieti ecki af siálfs mijns eigin Krapti edur Skilningi trwad á Jesum Christum minn Drottinn, edur til hanns komist; helldur hefur Heilagur Andi mig, fyrir Gudspiallanna Kienningu, kallad og upplijst med sijnum Astgiofum, helgad mig og vidhalldid i riettri Trw; Lijka sem hann allá adra christna Menn á Jordu kallar, samannsafnar, upplijsir og

og helgar, og i einni rettri Trw til Jesum Christum vardveitir. J hverri christilegri Kyrkiu hann naadarsamlega fyrirgiefur mier og ollum Trwudum daglega allar Syndir: Og a efsta Degi mun hann uppvekia mig og alla Menn af Dauda, og giefa mier, med ollum Riett-Trwudum, i Christo JEsu Eilijft Lijf og Saluhialp. Þetta eru vißuleg Sannindi.



# Drottinnleg-Bæn.

FADER vor, Þu sem ert a Himnum.

Þad er:

Gud vill hier med tilleida oß og locka, ad vier trwa skulum, ad hann sie vor riettilegur Fadir, og vier hanns sannarleg Born; So vier þeß helldur med fullu Trwnadar Trausti meigum hann bidia, so sem good Born bidia sinn elskulegann Fodur.

Firsta

# Fyrsta Bæn.

## Helgist þitt Nafn.

### Hvad er þad?

Þad er: Guds Ord er sannarlega i sialfu sier heilagt, þo vier bidium ecki; enn vier bidium i þessari Bæn, ad þad einninn helgist hier med oss.

### Hvernig skiedur þad?

Nær Guds Ord kiennist riettelega og hreinlega, og vier eptir þvi lifum Heilaglega, so sem Guds Bornum hæfir. Þar til hialpi oss vor elskulegi Fadir a Himnum! Enn hvor sem odruvijsi kiennir edur lifir enn Guds Ord bijdur, sa vanhelgar Guds Nafn a medal vor. Þar fra vardveiti oss vor elskulegi Himneski Fadir!

# Annur Bæn.

## Tilkomi þitt Rijki.

### Hvad er þad?

Þad er: Guds Rijki kemur ad sonnu an vorrar Bænar af sialfu sier til; Enn vier

vier bidium i þessari Bæn, ad þad einnig komi til vor.

Hvernig skiedur þad?

Nær Gud gefur oss sinn Heilaga Anda, sa oss veitir þa Nad, ad vier trwum hanns Heilaga Ordi, lifum Heilaglega, hier Stundlega, enn annars Heims Eilyflega.

## Þridia Bæn.

Verde þinn Vilie, so a Jordu sem a Himne.

Hvad er þad?

Þad er: Guds goodur og Nadugur Vilie verdur a Himnum, þo vier bidium ecki; Enn vier bidium i þessari Bæn, ad hanns Vilie verdi hier a medal vor.

Hvernig skiedur þad?

Nær Gud onijtir og hindrar oll ill Rad og vondann Vilia, þeirra sem þvi vallda, ad Guds Nafn vanhelgast, og hanns Rijki naair eigi til vor ad koma; sem eru Diofullinn, Heimurinn og vor Holldlegur

legur Vilie: Helldur styrkir hann oss og stoduga giörir i sijnum Ordum og i Trunni allt til vorra Æfiloka. Þetta er hanns Myskunsamur og goodur Vilie.

## Fioorda Bæn.

Gef oss i Dag vort Daglegt Braud.

### Hvad er þad?

Þad er: Gud gefur ad sennu Daglegt Braud, jafnvel vondum Monnum, þo vier bidium ecki; Enn vier bidium i þessari Bæn, ad hann lati oss vort Daglegt Braud viðurkienna, og med Þacklæti til vor medtaka.

### Hvad kallast Daglegt Braud?

Þad kallast allt þad sem Naudsynlegt er til þessarar Lijfs-Biargar; Sem er: Matur og Dryckur, Klædi og Skiædi, Hws og Heimili, Todur og Engiar, Kvik-Fienadur, Gotz og Peningar, good Egta-Persoona, hlijdiun Born, dyggt Hioonustu-Foolk, trwir og froomir Yfir-Menn, good Almwgans Stioorn, hagstæd

Vedur-

Veduraatta, Fridur, Heilbrygdi, Sidsemi, Heidur, goodir Vinir, trwfastir Nagrannar, og allt annad þessu lijkt.

## Fimmta Bæn.

Fyrirgef oss vorar Skulldir, so sem vier og fyrirgefum vorum Skulldu-Nautunum.

Hvad er þad?

Þad er: Vier bidium i þessari Bæn, ad Fadir vor Himneskur vilie eigi aulijta vorar Syndir, so hann fyrir þeirra Skulld, vilie eigi veita oss vora Bæn, (þvi vier erum allra þeirra Hluta Omakiegir, sem vier hann ummbidium, og hofum eigi þad Verdskulldad,) helldur ad hann vilie oss þad allt fyrer gefa fyrir sijna eiginnlega Naad; þvi Daglega syndgum vier, og forþienum ei annad enn Straff; So viliom vier og einnig þar i mootti fyrirgiefa af Hiarta, þeim sem oss ad mooti brieota, og giora þeim gott, sem vid oss misgiora.

Siötta

# Siøtta Bæn.

## Eigi innleid þu oss i Freistni.

### Hvad er þad?

Þad er: Gud freistar ad sønnu einkis Manns, enn vier bidium i þessari Bæn, ad hann vilie vernda oss og vardveita fra Andskotans, Heimsins og Holldsins Vielum, so vier hrøpum ecki fyrir þeirra Tilteiging i Vantrw, Ørvænting, edur adrar stoor Syndir og Løstu, og þo vier freistunst af ollu þessu, þa lauti hann oss umm sijdir yfirvinna og Sigrinum behallda.

# Siøunda Bæn.

## Helldur frelsa oss fra Illu.

### Hvad er þad?

Þad er: Hier bidium vier alls i Einu i þessari Bæn, ad Fadir vor Himneskur frelsi oss fra ollu Illu til Lifs og Saalar, Farsældar og Heidurs; Og ad sijdurstu, þa vor Dauda-Stund er kominn, gefi hann oss goodann Afgang, og taki oss Myskunsamlega til sijn wr þessum Eymdar-Dal, inn i Himna-Riki. Amen.

Hvad

Hvad er þad?

Þad er: Ad eg skal vera fullviss, ad þessar vorar Bæner sieu vorum Himneska Fodur þacknæmilegar, og af honum heyrdar: Þvi hann hefur sialfur skipad, ad vier skylldum med soddann Hætti bidia, og hefur lofad, ad hann villdi oss Bænheyra. Amen! Amen! Þad er Jaa, Sannarlega, þad skal so vera.



# Sacramentum Heilagrar Skijrnar.

## Fyrsta Spurning.

Hvad er Skijrn?

Skyrnenn er ecke einsamallt Vatn, helldur er hun þad Vatn, sem samann er reiet og bunded med Guds Bodordi, og med Guds Ordi er samteingt.

Hvert er þad Guds Ord?

Þad vor Herra JEsus Christus ſagdi hiaa Mattheum i 28 Capitula:

## Fared wt um̃ allann Heiminn, kiennid øllum Þioodum, og ſkijrid þær, i Nafni Fødur, og Sonar, og Anda Heilags.

### Aunnur Spurning.

Hvad wtvegar oſs og veitir Skijrninn?

Hun wtvegar oſs og veitir Fyrirgefning Syndanna, frelſar oſs fraa Daudanum og Dioflinum, og gefur þeim øllum Eilijfa Saaluhiaalp, ſem trwa þvi, ſem Ordinn Guds og Fyrirheitinn lofa.

Hver eru þau Guds Ord og Fyrirheit?

Þau vor Herra JEsus Christus ſegir hiaa Marcum i 16 Capitula:

## Hvør hann trwir og verdur ſkijrdur, ſaa ſkal hoolpinn verda,

enn

enn hvor hann ecki trwir, sa skal verda fordæmdur.

### Pridia Spurning.

**Hvernig ma Vatnid orka so veglegra Hluta?**

Vatnid ma alldri slijks orka, helldur veitir þad Guds Ord, (hvort ad er i og med Vatninu,) og Trwinn, hvor ad slijkum Guds Ordum i Vatninu trwir; þvi fyrir utann Guds Ord, er Vatnid einsamallt Vatn, enn einginn Skijrn; enn þegar Guds Ord samlagast Vatninu, þa er þad Skijrn. Þad er Nædarfullt Lijfsins Vatn, og Endurgietningar Laug i Heilogum Anda, so sem Paull Postuli seger til Titum i 3 Cap. Eptir sinni Myskunsemi hefur Gud oss hoolpna giordt, fyrir þann Endurgietningar Vatns Sa, og Endurnijun Heilags Anda, hvorium hann hefur nooglega wthellt yfir oss, fyrir Jesum Christum vorn Lausnara, so vier rietts

riettlætter fyrir hanns Rad, yrdum Erfingiar Eilijfs Lijfs eptir Voninni. Þessi Ord eru sonn og trwanleg.

## Fioorda Spurning.

Hvad merkir þvilijk Vatns Skijrn?

Hun merkir þad, ad sai hinn gamli Adam i oss, ai Daglega ad dreckiast og deydast, fyrir Ydran og Yfirboot, med ollum Syndum og vondum Gyrndum; og sijdann Daglega frammkoma og upp aptur rijsa einn nijr Madur, sai ed lifa skal i Riettlæti og Heilagleika fyrir Gudi Eilijflega.

Hvar stendur þad skrifad?

Sancte Paull segier til Rom. i 6 Cap. Vier erum Jardadir med Christo, fyrir Skijrnina i Daudann, ad lijka, so sem Christur er uppvakinn frai Daudum, fyrir Dijrd Fodursins, so eigum vier ad gainga i Endurnijungu Lijfdaganna.

Sacra-

# Sacramentum Altaresins.

## Fyrsta Spurning.

Hvad er Sacramentum Altarisins?

Sacramentum Altaris er sannarleat Holld og Blood Drottinns vors Herra Jesu Christi, undir Braudi og Vijni, af honum sialfum JEsu Christo innsett, oss Christnum Monnum ad Eta og Drecka.

Hvar stendur þad skrifad?

So skrifa þeir Heilogu Gudspiallamenn, Matthæus, Marcus, Lucas og Sancte Paull:

Vor Herra Jesus Christus, a þeirri Natt, sem hann forraadinn var, took hann Braudid, giordi Þackir, og braut þad,

þad, og gaf siijnum Lærisvein-um, og sagdi: Takid og Etid, Þetta er minn Liijkami, sem fyr-ir ydur verdur gefinn, giørid þad i miijna Minning.

Sømuleidis, eptir Kvølld-maaltiijdina, took hann Kaleikinn, giørdi Þackir, gaf þeim hann og sagdi: Dreckid aller hier af: Þetta er Kaleikur hins niija Testamentis i miijnu Bloodi, sem fyrir ydur wthelliſt til Fyrer-gefningar Syndanna; So opt sem þier giørid þetta, dreckid þad i miijna Minning.

Aunnur Spurning.

Hvad ſtodar oss med sodann Hætti ad Eta og Drecka hier af?

Þad wtviijsa mier þessi Ordinn sem hier standa: Fyrir ydur gefſt og wthell-

wthellist til Fyrirgefningar Syndanna. Þvi ad sønnu veitist oss og gefst fyrir þessi Ordinn i Sacramentinu Syndanna Fyrirgefning, Eilijft Lijf og Saaluhiaalp; Þviad hvar Syndanna Fyrirgefning er, þar er einnig Lijfid og Saaluhiaalpinn.

## Þridia Spurning.

### Hvørnin kann Lijkamleg Berging ad verka so mikla Hluti?

Berging Brauds og Vijns verkar þad i eingann Maata, helldur þau Ordinn sem hier standa: Fyrir ydur gefist og wthellist til Fyrirgefningar Syndanna. Hver Ord ad eru hia lijkamlegri Beringu so sem Hofud-Stycki i þessu Sacramenti: Hvør sem þessum Ordum trwir, sa ødlast alt þad sem þau innihallda og uppaahlioda, sem er Syndanna Fyrirgefning.



16

## Fioorda Spurning.

**Hvør neytir þessa Sacramentis maklega?**

Ad fasta og sig lijkamlega þar til ad bwa, er ad sonnu good ytri Sidsemi; enn sa er sannarlega Maklegur og Velskickadur, sem Trwna hefur a þessum Ordum: **Fyrir Ydur gefst og Uthellist til Fyrirgefningar Syndanna.** Enn hver sem ecki trwir þessum Ordum og efar þau, sa er Omaklegur, þviad þetta Ordid: **Fyrir Ydur**, krefur fullkomlegrar Trwar i Hiartanu.



Skrifta-



# Skrifta-Malinn.

Minn kiæri verdugi Fadir i Christo! eg bid ydur giarnann, ad þier vilied virdast til ad heyra mijna Jatning, og hugga mig med Guds Ordi, og segia mier Fyrirgefning minna Synda, i Jesu Nafni.

Eg aum og syndug Manneskia, jata Almattugum Gudi, og ollum

hanns Stoormerkium, enn eg afneita Fiandanum og ollum hanus Svikum og Vielum. Hier med medkienni eg mig, fyrir Gudi og Ydur, minn kiæri Fadir, ad eg hefi allskins Syndir giort til Orda og Verka, og vondra Hugrenninga alla mijna Lijfdaga i moote mijnum Himneskum Skapara, hanns Vilia og Bodord broted: þvi medkienne eg mig, hina Synduguſtu og Svijvirdeleguſtu Skiepnu Sem verda mai, bæde fyrer Gude og Monnum. Vil eg nu feigenn allra minna Synda ydraſt, aflaita og vidſiai, med riettri Trw og Trauſti, Guds Myſkunar mier vonandi, af ollu Hiarta, fyrir Verdſkulldan og Medalgaungu hanns kiæra Sonar JESU Chriſti, mijns Lauſnara. Ydur bid eg ad hugga mijna hrædda Samvitſku med Guds Ordi, og ſegia mier mijnar Syndir kvittar i JESU Nafni.

# Annar Skriftargangur.

Kiæri Fadir i Christo! eg aum synd- ug Manneskia, jata fyrir Gudi og ydur, ad eg er ei alleinasta i Synd- unum gietinn og fæddur, helldur hefi eg eirninn med mijnum Syndsamlegum Þaunkum, Ordum og Giordum, for- skulldad Guds Reidi og Obliidu, þar med Tijmanlegt og Eilijft Straff, Dauda og Fyrirdæming. Ydrar mig nu af Hiarta allra minna Synda, og leita Trausts og Lijknar i bloodugum Undum Drottins mijns Jesu Christi, sem fyrir mig er pijndur og dainn. Hvors vegna eg bid ydur i GUDS Stad, eptir Myndugleika ydars Em- bættis, ad segia mier minna Synda Kvittan og Fyrirgefning i Jesu Nafni, og meddeila mier þau Lijfkroftugu Fædu JEsu Christi Lijkama og Bloods. Eg

vil giarnann kappkosta med Hiaulp og Adstod Heilags Anda, ad siau vid Syndunum frammvegis, og minn Lifnad betra og bæta, hvar til Gud giefi mier sijna Naud i Jesu Nafni, Amen.



# Morgun-Bæninn.

Þackir giori eg þier minn himneski Fadir fyrir Jesum Christum þinn elskulegann Son, minn Drottinn, ad þu hefur mig au þessari Noottu fyrir ollum Skada og Hauska verndad og vard veitt, eg bid þig, ad þu vilier mig au þessum Degi og eirninn vardveita fyrir Syndum og ollum illum Hlutum, so ad allur minn Lifnadur og oll mijn Verk mættu þier velþocknast, þviad eg befala minn Lijkama og Saul, og allt þad eg hefi i þijnar Hendur, þinn

heilage

heilage Eingill sie hia mier, so ad sai hinn vondi Ovin, fai eckert Valld yfir mier, Amen.



# Kvølld=Bæninn.

Þackir giori eg þier minn Himneski Fadir, fyrir Jesum Christum þinn elskulegann Son, minn Drottinn, ad þu hefur mig a þessum Degi naid=arsamlega verndad og vardveitt; Eg bid þig, ad þu vilier fyrirgiefa mier allar mijnar Syndir, sem eg hefi a þessum Degi rangleiga giort og framid, og ad þu vilier mig a þessari Nottu naidarsamlega vardveita; Þviad eg be=fala mig, minn Lijkama og Sal i þijn=ar Hendur, þinn heilagi Eingill sie hia mier, so ad Diofullinn fai eckert Valld yfir mier, Amen.

# Bæn ædur madur Skriptast.

Eg aum syndug Manneskia, kiem nu i Dag, minn Drottinn, fyrir þitt Naadar Auglit, hladinn med storum Syndum, sem yfirganga mitt Hofud. Eg jaata ad eg hefi Syndgad i Himininn og fyrir þier, eg er sa fraavillti Saudur, tijndi Peningur og tapadur Sonur, sem utsooad hefi þeirri goodu Arfleifdinni. Eg skielf og titra, eg hrædist þinn Doom, eg Ottast Straff Syndanna, sem er eilijfur Daudi, eg kvijdi fyrir þvi ad deya, enn eg skammast mijn þo ad lifa. Hvad skal eg til giora? Eg flij til þijn Drottinn minn og Gud minn, ædur enn Doomurinn yfir mig fellur, þvi þu rekur aungvann fraa þier, er til þijn kiemur: þu hefur sett Ydran þeim Syndugu, og hefur sendt þijna Þienara ad boda ollum Sannydrandi Syndanna Fyrirgefning: Þvi asforma eg nu med þinni Naad, ad skriftast og jaatta mijnar Syndir fyrir þijnum Þienara. Drottinn Gud minn, uppvek mitt Hiarta til sannrar Ydrarar. Þu

asliitur

allijtur einasta Hiartans Þanka. Gief mier audmiwkt Hiarta i Jatningunni, stadfasta Trw i Aheyrslu Heilagrar Aminningar og Aflausnar, adgiætid Hiarta i Eptirtekt og Avextinum frammvegis. O! Jesu, gief ad þessi Dagur sie einn Ydrunar Dagur og Lijfernisins Betrúnar, Ja, einn heilagur Dagur. Sieu nu Syndir mijnar drecktar i Hafsins Diwpi þijns heilaga Bloods, hveriu eg og fullkomlega trwi: So gief eg og sel mig og mitt þetta Aform þier mijnu Jesu til Saluhiaalplegra Urræda og æskileguftu Enda lyktar, i þijnu Nafni og Naudar-Trausti, Amen.



## Bæn eptir Aflausnina.

Þackir giori eg þier minn Himneski Hiartans Fadir, fyrer þa Naad, er þu mier i Nafni mijns Lausnara Jesu Christi hefur nu a þessari Stundu veitt, þar þu hefur leyst Fiotur minna Synda, og faagad

faugad mijn Synda-Saar, huggad og gladt mitt Hiarta med heilagri Aflausn og Bodan Syndanna Fyrirgiefningar, fyrir Munn þijns Þienara. Drottinn minn! Gief þu mier, þig hier fyrir ad prijsa, hiartanlega ad elska, og þier þioona. Send mier Raad þijns heilaga Anda, ad eg hallda kunni þad eg lofadi i minni Jaatningu, mig vid Syndunum framm-veigis ad siaa og i Endurnyjung Lijfdaganna ad gaunga, svo eg ecki þverwdar-samlega Syndirnar drijgi: Og þo eg syndgi (þvi þar er einginn, sem ei syndgi) þa gief mier af Syndunum upp ad rijsa, og ad eg minnist, ad Ovidurkvæmilegt sie þad, ad afklædast þeim fagra Rietlætisins Skrwda JESU Rietlætis, og iklædast aptur svijvirdilegum Syndanna Flijkum. Drottinn minn! Stioorna mier i Dag og alla Tijma til alls Goods, og med þess-um Þanka vil eg nu i Dag þiggia og medtaka Drottins Kvølldmaaltijd. Gud minn uppfylli mijna Naudsyn eptir sijn-um Dijrdar Rijkdoomi i Christo JEsu, Amen.

# Bæn fyrir Bergínguna.

Almattugi Gud, Fadir Drottinns vors JESU Christi; nu er eg kominn ad Beginn ad niota Bordhallds þijns elskulegasta Sonar i hanns heilagri Kvolldmaaltijd: Enn hiaa mier finn eg ecki nema Overdugleik ad niota þvilijkrar Maaltijdar. Ef eg skylldi frammbera þad sem væri i nockru Gyllde, þa vænti eg þess af sialfs þijns Naad og Milldri Hendi. Þu hlijfdir ecki þijnum eigin Syni, helldur gafstu hann wt fyrir oss alla, og þar med prijsadir þu þinn Kiærleika vid oss. Hann er og dainn fyrir vorra Synda Skulld, eptir Ritningunum, og liet oss eptir sijn Furdanleg Verk, þvi vier hofum hanns Lijkama, sem hann gaf wt fyrir oss, og þann Nija Testamentisins Kaleik, i hanns Bloodi, hvoriu hann fyrir oss wthellti. Hver sem nu etur hanns Holld, og dreckur hanns Blood, hann hefur þad eilijfa Lijfid, og JESUS mun uppvekia hann a þeim Efsta Degi. Eg er nu hier nærverandi, i þeim Stad, hvar þu hefur skickad

ad Minning þijns Nafns, til ad eta Hollð Mannsins Sonar og ad drecka hanns Blod: O! Drottinn! lát þad vel luckast. Æ! Drottinn, þu tilbijr eitt Mat-Bord fyrir mier i mooti mijnum Ovinum: Þu smyr mitt Hofud med Vidsmiori, og skieinkir fullt ā forir mig: Enn eg er ein syndug Manneskia, og ecki verdug þess, ad þu inngangir til mijn: Þo af þvi eg veit, ad hver sem trwir ā þig, hann er Riettlatur; Og so hefur þu elskad þinn Sofnud, ad þu gafst þig sialfann wt fyrir hann, og helgadir hann, so ad vier hefdum Fridinn i þier sialfum: Þvi þu ert ofs af Gudi giordur til Riettlætis, Helgunar og Endurlausnar, þar fyrir bid eg þig nu og Grātbæni. Æ! Bænheyr mig eptir þinni stooru Giæsku og Miskunsemi. Mijna Sal þyrstir eptir þier, sem eina þurra Jord eptir Friodssomu (heilsusomu) Regni: Verka þu þad hiā mier sem þier er þocknanlegt, þvi þu ert Hyrdir og Biskup Salar minnar. Gief mier þad hulda Manna, og drycksia mig med Vellysting, so sem med einum rennandi Straumi. Ad þar meigi wtslioota

af

af mijnum Lijkama, fyrir þig, lifandi Vatns Straumar. O! Drottinn Gud Heilage Ande! þu sem verkar alla gooda Hluti, verka og so kroptuglega i mier, ad eg meigi so eta af þessu Braudi og drecka af þessum Kaleik, ad mijn Saala verdi i Sælgiæti feit, og odlist þad eilijfa Lijfid, og ad eg fyrir þitt allra heilagasta Vord-hallð, mætti umm sijdir verda einn Med-lijmur þinna Utvalldra vid þitt eilijfa Boord i Himnarijki. Eg kiem, Herra JEsu, kom þu og til mijn, so skalltu vera minn, og eg skal vera þinn. Bænheyr mig fyrir þitt Blood og þijn heilogu Pijslar-Saar, Amen.



## Bæn eptir Bergingúna.

O! minn Hai-Blessadi Frelsari Herra JESU! nu hefur þu giordt þier Vistar-Veru i mijnu Hiarta; Og samteingt þig med sialfum mier. O allra sætasti Herra JEsu! Hvorn Einglarnir tilbidia, og fyrir hvørs Allra-Heiloguftu Asynd Seraphim

Seraphim skiiSa siinum Asioonum med Værgium, og hroopa ann Afitauts: Heilagur, Heilagur, Heilagur, er Drottinn Gud Zebaoth. So sem þu nu i þinni Heilagri Kvolldmaaltijd hefur gefid mier stærsta Rijkdom þinnar Naadar og eina Trwar Hond ad medtaka hann; So gef mier frammvegis þinn Styrk ad hallda þier i einu hreinu Hiarta, sem adskilid sie frai Verolldinne. Send þu i mitt Hiarta ad ofann þinn Kiærleiks Elld, so ad minn Lofgiordar og Þackiætis Logi mætti uppstiiga til þijn, og þreyngia sier inn i Himininn. Nu er eg, Herra JESU, fæddur med þijnum Lijkama, og mijn Saal er Endurnærd med þijnu Bloodi. Laat, O JESU! mijna Saal hier eptir vera olldungis þijna Eign, burt-tekna frai ollu þvi, sem þier misþocknast. Laat minn Munn og mijnar Varir, sem medtekid hafa þenna Helgidoom, og mitt Hiarta vera þier vijgt sem eitt þægilegt Mustert. Minn sætaste HErra JEsu! Nu er Guds Rijki Innvortis med mier: Nu legg eg mijnar Hendur, undir þijnar, med Noglunum giegnum stungnu Hendur og Fætur,

og afhendi þier nu Lyklana ad mijnum Hiartans Dyrum; Vertu þar Velkominn, þu Himneski Dijrdarinnar Konungur. Befala mier hvad þu villt eg skuli giøra eptir þinni Heilägri Velþocknan. J þijnum Getnadi og Fædingu gafstu meir þig siälfann: J þinni Heilagri Kvø-Ldmaltijd, gefur þu mier þig siälfann. Nu gef eg mig þier allann med Sælu og Lijsi: medtak þu mig Drottinn, og leid mig, so ad eg villist alldrei nie vijki frä þier. Fullkomna þad gooda Verkid sem þu hefur i mier Nadarsamlega uppbyriad; So ad eg mætti odlast Endalok Trwarinnar; Sem er Eilijft Hialpræde Salarinnar. Þitt Nafn sie lofad ad Eilijfu, Amen.



# Heilrædi Sr. Hallgrijms P. S.

Ungum er þad allra best, ad Ottast Gud sinn Herra, þeim mun Vitskann veitast mest, og Virding ecki þverra.

Hafdu



Hafdu hverki Hæd nie Spoott, hugsa umm Rædu mijna, elska Gud og gior þu gott, geym vel Æru þijna.

Forelldrum þijnum þiena af Dygd, þad mat Giæfu veita, varast þeim ad veita Stygd, vilier þu gott Barn heita.

Hugsa umm þad hellst og fremst, sem Heidurinn mat næra, alldrei sat til Æru kiemst, sem ecker gott vil læra.

Lærdur er i Lyndi gladur, Lof ber hann hiat Þioodum, hinn er ei nema hallfur Madur, sem hafnar Sidum goodum.

Opt er sat i Ordum nijtur, sem ydkar Mentan kiæra, enn Þussinn heimskur þeigia hlijtur, sem þriootskast vid ad læra.

Vertu Dyggur, Trwr og Triggur, Twngu geimdu þijna, vid eingann styggur, nie i Ordum hryggur athuga Rædu mijna.

Lijtilatur, Liwfur, Katur, leik þier ei wr Maata, varast Spiatur, Hædni, Hlatur, heimskir Menn so lata.

Vijst avallt þeim Vana hallt, vinna, lesa, ydia, umrnframm allt þu ætijd skallt, elska Gud og bidia.

Heilrædi

# Heilrædi
# Doct. Mart. Luth.

Meſt vitir, enn miog fatt ſegir.
Margt heyrandi, umm þad þeigir.
Hialpa þeim i Hauſka eygir,
Hefnd og Urſkurd leingi deigir.
Vielum ſijſt i Vinſkap ſmeigir.
Vid þier hollum, ei þig reigir.
Liwſur meira Manni hneigir.
Minna lijtir ei nie ſveigir.
Afla vel, enn Faung ei feigir.
Falslauſt gialldir og wtveigir.
Metnaſt ei, þo mikid eigir.
Miſsir aungvann leingi þreygir.
Annars Gots Ogiarna leigir.
Goodſws ſiert þeim Luckann beigir.
Omaklegann alldrei ſtreigir.
Orløg Kijf og Roog ei heigir.
Varaſt Kapp þo vinna meigir.
Viik frá þeim til Synda teigir.
Mood og Agyrnd frá þier fleigir.
Fridgiarn riett-trwadur deyir.

Rooin-



## Roomverſk-Tala og Sifru-Tala.

| | | | | | | | | |
|---|---|---|---|---|---|---|---|---|
| I. | II. | III. | IV. | V. | VI. | VII. | VIII. | IX. |
| 1. | 2. | 3. | 4. | 5. | 6. | 7. | 8. | 9. |
| X. | XI. | XII. | XIII. | XIV. | XV. | XVI. | | |
| 10. | 11. | 12. | 13. | 14. | 15. | 16. | | |
| XVII. | XVIII. | XIX. | XX. | XXX. | XL. | | | |
| 17. | 18. | 19. | 20. | 30. | 40. | | | |
| L. | LX. | LXX. | LXXX. | XC. | C. | | | |
| 50. | 60. | 70. | 80. | 90. | 100. | | | |
| D. | M. | MM. | | | | | | |
| 500. | 1000. | 10000. | | | | | | |

Sig meſt merkir hinn fyrſti, Mann Tiju kvad Annar, Hundrad þiðir hinn Þridie, Þúſund Fioordi vel grunda, Tiju Þuſund tel Fimmta, tel Hundrad Þuſund Siötta, Sieunda mier Klerkar kiendu, ad kalla Þuſund Þuſunda.